### Þeir

# Tveir Veigir.

Eptir ordum Jesú Krists, hjá Matth. 7, eru þad tveir veigir, á hvørra ødrum hvørjum allar manneskjur reika.

---

Annar þeirra er breidur, léttfær og undanhallur, á hvørjum margir sveima, en hann liggur til eilífrar gløtunar. Hinn er þraungur, torsóktur og brattur, á hvørjum fáir finnast, en hann leidir til eilífs lífs. Viltú nú vita, á hvørjum þessara vega þú stadnæmist, þá prófadu dyggiliga hjarta þitt og lifnadarlag, eptir Guds ordi, og muntú þá finna, í hvørja átt ad sála þín stefnir. Til dæmis: Ef þú lifir í nokkrum holdsins verkum, heimugliga edur opinberliga, svo sem í tvídrægni, øfund, hatri, ágyrni, stelvísi, sællífi, drykkjuskap edur lauslæti, þá stefnir þú vissuliga í daudans átt og ert á gløtunarinnar veigi. En ef þú nidurdrepur, fyrir dagliga ydrun og afleggíngu, þínar holdligar gyrndir og tilhneigíngar, þá stefnir þú í lífsins átt, og ert á réttlætisins veigi.

Nú þó ekki drýgir þú nein stórkostlig glæpaverk leynt edur ljóst, en ert þó samt sokkinn nidur í búk-

sorg, edur hégómans rækt og elsku, svo allt þitt hjarta er fast vid og áhángandi þessu tímanliga, þá stefnirdu samt víst í daudans átt á fordæmíngarinnar veigi. En sértú dagliga ad leitast vid, ad slíta huga þinn frá þessu jardnesska, og leggur mestu ástundun á, ad efla þitt sálargagn, þá stefnirdu í lífsins átt, á sáluhjálparinnar veigi. Enda þó eingin stakslig búksorg edur heims elska sýnist ad hafa innteklð hjarta þitt, en þad er þó samt kaldt, dofid og dádlaust í umsorgun andligra hluta, svo hræsni og hálfvelgja hefir þad fángad, þá stefnirdu víst í daudans átt á veiginum til töpunar, en sértu árvakur, stull og framkvæmdarsamur í því ad verka velferd sálar þinnar, svo þú sýnir fulla alvörugefni og dugnad í þínum kristindómi, þá stefnirdu sannliga í lífsins átt, á veiginum til himnaríkis. Já, enn framar, þó þú sýnir nokkra umsorgun útvortis fyrir sálu þinni, svo sem med venjuligri kyrkjurækni, húslestrum, altarisgaungum og þessháttar; en hefur þó ekki innvortis med þér neina alvarliga ydrun, strídandi bæn, né elskufulla trú, þá stefnirdú eingu ad sídur í daudans átt, og ert á ógjæfunnar veigi; en sértú, sem þú gétur, midt undir þínum útvortis gudrækuis æfingum, fullur hid innra í hjarta þínu, af sönnu hugaráugri, fyrir syndir þínar, af heitri og ydugligri bæn til Guds, um fyrirgéfníngu þeirra í Jesú nafni, og af umfadmandi og elskutendrandi trú til hans forþénustu og fridþægíngar, þá stefnirdu efunarlaust í lífsins átt, og ert á blessunarinnar veigi.

Loksins, þó þú fremjir ýmisleg útvortis gódverk, svo þú gjörir fátækum stundum gott, hýsir þann framanda, sért ærllgur í höndlun þinni og vidskiptum vid adra; vandlætir í bland réttlætisins vegna, og komir áslundum gódu til vegar þar med í heiminum; já, þó þú

stundum af alvøru tilbidjir Gud, einkum þegar nokkur útvortis neyd ad þér þreyngir, edur Guds undangángandi náð stormar sterkliga uppá hjarta þitt; þá gétur samt allt fyrir það skéd, ad þú stefnir enn í daudans átt, og sért ekki réttilíga kominn af fortøpunarinnar veigi; — en ef þú ydkar ádur talin gódverk á þann hátt, ad Jesú Krists kjærleiki knýr þig þar til, jafnvel þó náttúrufar þitt strídi þar á móti, og þú leitar þar med einúngis Guds dýrdar, en ekki þíns hródurs; náúnga þíns sanna gagns, en ekki þíns eigin ábata; já, ef þú tilbidur og ákallar Gud þrávalt, allra mest vegna þíns sálargagns, og lætur ekki Gud þurfa med útvortis edur innvortis stakligum strøffunum ad þvínga þig þar til, heldur þvíngar þig sjálfur til þess, vegna þarfar sálar þinnar; og sú þvíngan verdur þér sídan á eptir yndislig og ánægjufull, þá hefur þú stærstu líkindi til, ad þú stefnir í lífsins átt, og sért á réttum veigi til eilífrar sælu.

Af þessu kanntú nú, ó madur! ad þekkja, hvørt þú ert á þeim breida edur þraungva veigi, á veigi til eilífs lífs, edur á veigi til eilífs dauda; og rídur þér á þeirri þekkíngu, meir enn á øllu ødru; því án þess þú hana hafir, kanntú einga sanna — en máské svikula — samvitsku rósemd ad hafa í lífi edur dauda. Ransaka þig þessvegna dagliga í søgdu tilliti, og kappkostadú med ydrun, trú og bæn, ad gjøra þína fætur svo fasta á lífsins veigi, ad eingin holds né heims freistíng orki ad raska framfør þinni til eilífs lífs; já, ad þú í gégnum sjálft daudans járnhlid fáir, fyrir Jesú krapt, med gledi og hugrekki brotist inn til þeirrar himnesku Jerúsalem. Þess unni Gud þér, og øllum oss fyrir Jesúm Krist. Amen!

Veit mér, ó Gud! þann veg ad rata, sem vísar til sællrar eilífdar, og aldrei samvitsku gódri glata, í gledi' edur sorgum veraldar; óttast eg þá ei afgáng minn, er mér þá daudinn velkominn.

Margt þó hér vilji blinda og blekkja, og braut á glæpanna leida sál, þar fáir þad sýnist fullvel þekkja, fleiri því synda girnast tál; lát mig ei villa hold né heim, hjartad mitt fyrir vantrú geym.

Þú sem ert vegur, ljós og lífid, lifandi Jesú! vertu mér, freistínga nær eg kanna kífid, kraptur og stod á jørdu hér; en ljós í gégnum daudans dal, dýrdar svo komist fái í sal!